


# VERKALÝÐS BLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-leninista)

1. Tbl. 6. Árg. 7. jan.—21. jan. 1980 300 kr.






**Afghanistan:**

**Innrás Rússa er stríðshótun**

2





. Nova lagðist að bryggju þann 14. mars 1933, hlaðin tunnuefni til smíða í atvinnubótaskyni



2. Bæjarstjórn hafði ákveðið að laun við smíðina skyldu vera langt undir taxta, svo verkamenn lýstu afgreiðslubanni á skipið



3. Bryggjan var þéttskipuð fólki; menn bjuggust við einhverju sögulegu


**Ekki má taka okkur í rúminu aftur!**

3




4. Bæjarfógeti kom á vettvang og skipaði mönnum „í nafni konungsins" að hefja vinnu



5. Ein roskin verkakona, sem stóð rétt við fógeta tók skóhlíf af fæti sér og slæmdi henni í andlit fógeta



6 Urðu harðar ryskingar og varð fógeti loks að hverfa á brott með lið sitt


**Deilur í Eik(m-l) um kvenna — spurninguna**

6





7. Verkalýðshúsið var aðalbækistöð verkfallsmanna og þar var jafnan til taks einhver liðstyrkur allan sólarhringinn



8. Almennt og einhuga harðfylgi verkalýðsins fór ekki framhjá andstæðingunum, sem njósnuðu um hverja hreyfingu á verkfallsvöktum og kringum Verkalýðshúsið





9. Deilunni lauk með sigri verkfallsmanna, Bæjarstjórnin féllst á að greiddur yrði vetrartaxti Verkamannafélagsins við smíðina.

Novudeilan eftir Þóru Sigurðardóttir


**Valdajafnvægi og friðarhjal**

7


# 20 STÓRIR

4-5

## samtíningur

### Jón Sigurðsson

Jón Sigurðsson, þjóðhagsstjóri, hefur brugðið birtu og yl til landsmanna í skammdeginu. "Óskynsamlegt að auka almennan kaupmátt tekna" segir hann í Morgunblaðinu þ. 30. des. Færir hann fyrir því mörg og sterk rök - er því ljóst að hið skynsamlega er lækkun almenns kaupmáttar. Því ekki fær hann að standa í stað eins og dæmin sanna. Jón er ósjaldan fenginn til að leiðbeina þjóðinni á vandrataðri leið - ekki setjast menn niður við kjarasamningagerð eða stjórnarmyndun án þess að hann sé kallaður til. Af opinberri skynsemi hans má ráða hvað hann telur happadrýgst.

★

### Stjórnarmyndunarviðræður

Sérfræðingar vorir í stjórnarmyndunarviðræðum hafa komist að kjarna þess máls.

Hann felst í því að einhver flokksforingi fær það verkefni hjá forseta vorum að ræða við hina flokksforingjanna og semja við þá um gagnkvæmar tilslakanir til að gera megi stjórnarsáttmála. Tilslakanirnar felast í því að menn svíki kosningaloforðin sem gefin voru í krafti þeirra stefnu sem flokkurinn lagði í slaginn með. Allir höfðu flokkarnir skýrt mótaða stefnu - sem var gjörólík stefnu hinna flokkanna. Á þessu má sjá hversu erfitt þerra verkefni er.

★

### Heildsala á Bessastöðum?

Albert Guðmundsson hefur opinberlega tekið stefnuna á Bessastaði. Nokkrar hliðar eru á því máli og sjálfsagt margar skoðanir líka. Vandamál eru þó vís með að skjóta upp kollinum nái Albert kjöri. Eitt hefur þegar valdið heilabrotum, nefnilega hvað Berti á að gera af sér milli embættisverkanna. Kristján hafði sína fræðigrein en Albert aðeins knattspyrnuna og heildsöluna.

★

### Lúðvík dregur í land

Fyrir kosningar sagði Lúðvík Jósepsson í sjónvarpi að samstarf við íhaldið eftir kosningar kæmi almennt og yfirleitt ekki til greina. Eftir kosningar sagði sami maður að stjórnarsamstarf yrði að byggjast á málefnasamstöðu. Lúðvík sagði að leiftursóknarstefna íhaldsins væri slík að ekki væri samstarf hugsanlegt á grundvelli hennar. Sem sagt, nú er Lúðvík bara leiftursóknarandstæðingur en ekki íhaldsandstæðingur?



Afghanistan og nágrannaríkin

Sovétríkin ráðast inn í Afghanistan

# Innrás Rússa er stríðshótun

Í þriðja sinn á sex árum grípa Sovétríkin inn í innri mál í Afghanistan og skipta um leppa í æðstu stólum. Árið 1973 hjálpuðu sovéskir ráðgjafar Muhammed Daouð til valda í valdaráni hersins. Árið 1977 voru sovéskir skriðdrekar og herflugvélar með í nýju valdaráni og nú í desember 1979 troða sovéskir hermenn með vélbyssur um götu í Kabúl og mynda vörð um hinn nýja lepp Sovélríkjanna.

### Var beðið um aðstoð?

Tugir þúsunda sovéskra hermanna hafa tekið þátt í árásinni í Afghanistan.

Allt er þetta gert undir því yfirskyna að valdamenn í Afghanistan hafi beðið Sovétríkin um aðstoð. Hvenær höfum við ekki heyrt þvílíkt. Ráðamenn í Prag báðu um aðstoð - að sögn Kremlverja. Tékkóslóvakía er ennþá undir rússneskum járnhæl. Mengistu í Eþíópíu bað um aðstoð og rússar sendu honum Kúpuhermenn og sovéska ráðgjafa, auk vopna. MPLA foringjar í Angóla auk vopna aðstoð frá Sovétríkjunum.

Staðreyndin er sú að lepparnir biðja um aðstoð til þess að koma heimsvaldaáformum Rússa í höfn. Ef ekki eru leppar fyrir þá eru þeir búnir til með valdaránum. Þetta er þekkt aðferð frá því að Bandaríkin notuðu nhana um langt skeið, t.d. í S-Ameríku.

### Stríðsógnun

Innrás Rússa í Afghanistan er bein ógnun við þjóðir V-Asíu og auk þess sýnir hún hve langt Rússar nú þora að fara í að skáka Bandaríkjunum. Það má ekki líta á þessa innrás á sama hátt og gert hefur verið við venjuleg valdarán. Hér er um að ræða innrás í land, sem liggur utan sovéska áhrifasvæðisins, eins og risaveldin tvö eru búin að ákveða þau. Um er að ræða afdráttarlaust skref til nýrrar uppskiptingar. Slíkt skref er stríðshótun.

## erlent viðhorf

### Í ljósi Iran

Þjóðlega byltingin í Íran stefndi í upphafi á að gera Íran sjálfstætt. Það tókst. Þrátt fyrir margar og ítrekaðar tilraunir tókst Rússum ekki að komast með lið sitt til áhrifa í íslömsku hreyfingunni. Flokkur rússasinna í Íran var settur út á gaddinn og afhjúpaður. Næsta skref Rússa var að gera lið út af örkinni til að æsa þjóðlega minnihluta upp gegn íslömsku byltingunni í því skyni að koma af stað borgarastríði í Íran. Borgarastríð myndi þýða algera upplausn og ætluðu Rússar að veiða í gruggugu vatninu og vinna áhrif. Þetta tókst heldur ekki. Annarsvegar var uppreisn Kúrda bæld og hins vegar beindist hún ekki gegn íslömsku byltingunni, heldur einstökum aðgerðum byltingarráðsins.

### And-bandarísk alda

Taka bandaríska sendiráðsins í Teheran og gíslanna hratt af stað mikilli and-bandarískri öldu í öllum múhameðsku löndunum, líka í Afghanistan. Í skjóli hennar færðu Rússar sig upp á skaftið og undirbjuggu innrás. Sendiráðstakan hefur líka sýnt Rússum að stjarna Bandaríkjanna er að hníga. Fyrir 10-15 árum síðan hefðu Bandaríkin ekki beðið með harðar aðgerðir gegn þvílíkri ógnun sem taka sendiráðs og fjölda sendiráðsstarfsmanna er.

Að ráðast á Afghanistan og koma sér vel og dyggilega fyrir einmitt á þessum tíma var hernaðarlega séð hættuminna en annars. Innrásin í Afghanistan er Bandaríkjunum ný lína í viðbót við Íran. Það veikir að sjálfsögðu að þurfa að berjast á fleiri vígstöðum.

### Sýnir hvert stefnir

Innrásin í Afghanistan sýnir hvert stefnir á nýjum áratug. Sovéskir skriðdrekar og hverskonar vígvélar rúlla nú í æ fleiri löndum og það sem meira er, þeim er líka stýrt af Rússum. Bein hernaðarþátttaka Rússa verður nú algengur viðburður. Frelsishreyfingar hverskonar, sem á síðasta áratug börðust með miklum árangri gegn bandarískri heimsvaldastefnu og vestrænum yfirgangi snúast nú einnig til baráttu gegn sovéskri heimsvaldastefnu.

Æ.-

# Stjórnmálaástandið

## innlent viðhorf

Geir Hallgrímssyni tekst varla að mynda ríkisstjórn í gegnum símann. Stjórnarkreppan á að líkindum eftir að standa í allnokkurn tíma enn. Hugsanlegt er að einhvers konar bráðabirgðasamkomulag verði gert til sumarsins, en þá verði boðað til nýrra kosninga. Auðvaldið hefur nefnilega boðað kjaraskerðingar og það verður einhver eða einhverjir flokkanna að bera ábyrgð á þeim.

Horfurnar eru ekki bjartar fyrir borgaralegu þingflokkanna. Niðurstöður kosninganna urðu ekki til eflingar íhaldinu, þrátt fyrir að lag hafi verið til þess vegna ósamstæðrar vinstri stjórnar. Stórsigur Framsóknarflokksins var í rauninni það versta sem fyrir þingflokkanna gat komið

Stjórnarmyndunartilraun Steingríms Hermannssonar sýndi að afar hæpinn grundvöllur er fyrir endurreisn vinstri stjórnarinnar. Hvorugur A-flokkanna er hrifinn af þeim möguleika, þar sem þeir verða þá hvor um sig að bera meginábyrgð á öllum þeim kjaraskerðingum sem auðherrarnir hafa sett fyrir.

Í öllum vangaveltum um stjórnarmyndun virðist Framsóknarflokkurinn út úr myndinni. Stórsigur hans í kosningunum ætlar ekki að verða til að efla stöðu hans á ríkisjötunni - heldur þvert á móti.

Innan Sjálfstæðisflokksins og Alþýðubandalagsins dreymir menn um samstjórn þessara tveggja flokka. Styrmir moggaritstjóri og fleiri hafa ekki farið dult með þá skoðun sína. En forráðamenn Alþýðubandalagsins fela hug sinn vel.


Lúðvík Jósepsson hefur ekki lengi verið formaður Alþýðubandalagsins, en undir formennsku hans hriktir í innviðum flokksins sem aldrei fyrr.

Alþýðubandalagið er ekki einsleitur sósíalískur flokkur. Innan hans eru fjölmargir, og ekki síst í forystuliðinu, sem gefa lítið í sósíalísk markmið í stefnuskrá flokksins. Margir líta jafnvel stefnuskrána hornauga og vilja hana feiga.

Jafnframt þessu er innan Alþýðubandalagsins talsverður stokkur manna sem líta á flokkinn sem sósíalískan múrbrjót í þjóðfélaginu en ekki bara kjaravarnaflokk. Raddir þessara manna hafa æ minna svigrúm á undanförnum árum eftir því sem flokkurinn hefur teygt sig lengra til hægri eftir atkvæðum.

Þátttaka flokksins í síðustu vinstri stjórn og samfelld eftirgjöf hans í mörgum meginmálum, kjaramálunum, vaxtamálunum svo ekki sé minnst á hermálið hefur orðið til að magna óánægju þessara vinstri manna. Svo mjög að sumir hafa gengið úr flokknum, aðrir hafa samið mótmælayfirlýsingar og enn aðrir hafa byrjað að skipuleggja andstöðuhópa gegn hægri stefnunni í flokknum.

framh. á bls. 7

VBL 

MÁLGAGN EININGASAMTAKA KOMMÚNISTA

Skrifstofa VERKALÝÐSBLAÐSINS er á Frakkastíg 14 (í húsnæði Oktoberbúðarinnar). Hún er opin alla virka daga frá kl. 8³⁰ - 12³⁰. Síminn er 29212.

Verð blaðsins í lausasölu eru 3oo kr.

# Ekki má taka okkur í rúminu aftur!

Það er nú ljóst að alvarleg stjórnarkreppa ríkir hjá auðvaldsherrunum. Þingkosningarnar urðu ekki til þess að gera stjórnarmyndun auðveldari. Niðurstöður þeirra urðu svipaðar og í kosningunum 1967 þó án þess möguleika nú að mynduð verði ný "viðreisnarstjórn."

Stæsta vandamál þingflokkanna er að finna leiðir til að skerða kjörin hjá alþýðu manna án þess að samtök hennar snúist til varnar og fylki launþegum landsins gegn árásum auðvaldsins. Við verðum því að vera viðbúin því að nýjar kosningar verði strax á þessu ári. Ekki má taka eikara í rúminu á nýjanleik.

Eftirleikur kosninganna sýnir líka að forysta Alþýðubandalagsins er fyrirmunað með öllu að endurmeta stöðu flokksins og ganga til móts við vinstri öflin innan hans. Óánægja vinstri sósíalistanna innan Bandalagsins sem hefur verið að gerjast innan flokksins á undanförnu ári og árum á því eftir að magnast enn.

Það þýðir að stórar kröfur verða gerðar til Einingarsamtakanna. Þau geta rétt þessu fólki hjálparhönd. Þau verða að taka þátt í þeirri umræðu sem er að fara fram og þau verða að hafa forgöngu um að sameina framsækn öflin innan og utan Alþýðubandalagsins í eina volduga hreyfingu.

# Breytingar á Verkalýðsblaðinu

Sú meginbreyting hefur nú verið gerð að ritstjóri hefur verið ráðinn til VBL í hálft starf. Þessi breyting ætti að gera auðveldara að tengja blaðið stéttabaráttunni og tryggja einhverju samfellu frá blaði til blaðs.

Að auki sjást hér í 1. tbl. nýja ársins ákveðnar aðrar breytingar. Við hyggjumst opna blaðið betur fyrir umræðu og seilum um ýmis vandamál framsækni hreyfingarinnar. Í þessu blaði byrjum við á umræðu um valdamál kvennahreyfingarinnar.

Þá verða breytingar á niðurröðun efnis. Leiðarinn flyst á 3. síðu og verður hér eftir skrifaður flestum tilfellum af ritnefnd. Erlend fréttaskýring og innlend fá samheitið "erlend og innlent viðhorf" og verða hér eftir á 2. síðu. Á 6. og 7. síðu verða lesendabréf, "deiludálkur", greinaflokkar, menningarefni o.fl.

Ákveðnar breytingar verða líka á útliti. Forsíðan verður hér eftir í svipuðu formí og á þessu tbl. Hausar yfir síðum verða lagðir niður, en nýir hausar með greinaflokkum, "temaefni" og föstum dálkum verða látnir fylgja hverri grein. Þá munum við fara að beita römmum utan um greinar ef meiri meðvitund en áður.

Þetta er alls ekki endanlegt form á blaðinu. Við erum að fikra okkur áfram. Við viljum því byðja lesendur um að segja álit sitt á þessu öllu, þannig að við getum þróast áfram og það hratt.



Ómar Harðarson

## Nýr ritstjóri Verkalýðsblaðsins

Verkalýðsblaðið hefur ráðið til sín starfsmann í hálft starf, Ómar Harðarson offsetprentara.

Í umræðum innan ritnefndar hefur fengist sú niðurstaða að lykilatriðið til að bæta blaðið og tryggja að endurbæturnar verði langvarandi sé að ráða starfsmann á launum til blaðsins. Einnig að nauðsynlegt sé að skipta fyrir ritnefndinni vegna villna sem hún (ritn.) ásamt samtökunum hafa gert varðandi blaðið.

Við teljun okkur ekki fært lengur að halda áfram að starfa að útgáfu blaðsins á grundvelli áhugamennsku einnar saman - til þess að geta komið til móts við þær kröfur og óskir sem blaðinu mæta verður að koma til atvinnumennska í stöðugt auknum mæli. Á þann eina hátt getur blaðið og sú hreyfing sem að því stendur búið sig undir, annarsvegar að bæta blaðið að innihaldi og útliti og hinsvegar að stækka blaðið með fleiri blaðsíðum eða aukinni útgáfutíðni.

Innan skamms verður að auka við atvinnumennsku í starfinu og þá einkum í sambandi við útbreiðslu þess.

Ljóst er að þessar breytingar í starfi Verkalýðsblaðsins hafa í för með sér mikla aukningu útgjalda. Það verður okkar höfuðverkur á næstunni að finna leiðir til að afla blaðinu tekna til að standa undir auknum útgjöldum.

Kamputsea:

# Með prjónum. . .

Margt hefur þótt einkennilegt við þá stjórn sem víetnamski herinn kom til valda í Phnom Penh, höfuðborg Kampútseu. Sumir af pótintátum stjórnarinnar hafa mælt sitt "móðurmál" með víetnömskum hreim og bendir það til þess að langar dvalar utan "ætt - jarðarinnar". Lengst gékk þó einn ráðherra í leppstjórninni er hann átti viðtal við sænsk hjón Lisu og Lassa Berg. Þar þakkaði hann víetnömum miklar góðgerðir til handa Kampútseumönnum. M.a. átti hann varla nógu sterk orð til að þakka það mikla góðverk að gefa Kampútseumönnum prjóna svo þeir gætu nú aftur borðað hrísgrjónin sín. Það fylgdi sögunni að Pol Pot hafi tekið alla prjóna af fólkinu þegar að hann var við völd. Þeir sem þekkja til í Kampútseu urðu hvumsa við þessi orð ráðherrans - því að Kampútseumenn hafa aldrei borðað með prjónum. Það hafa menn aftur á móti gert í Víetanm.

## APN fölsun afhjúpar sig sjálf

Nýlega sagði sovéska fréttastofan APN frá því að Kína væri að reyna að koma því í kring að fá nokkur ríki rekin úr Samtökum óháðra ríkja. Meðal þeirra sem Kína beitti sér gegn að sögu APN eru Kúpa, Víetnam og Alþýðulýðveldið Kampútsea, þ.e. Heng Samrinstjórnin. Það sem er sérstaklega athyglisvert við þessa frétt APN er það að "Alþýðulýðveldið Kampútsea" hefur aldrei verið aðili að Samtökum óháðra ríkja og því erfitt að reka þau þaðan. Alþýðuríkið Kampútsea (Pol Pot-stjórnin) er hins vegar aðili að samtökunum. Fréttafalsanir Sovélríkjanna tala sínu skýra máli.

Laos:

# Eiturefnahernaður

Frá árinu 1975 hafa yfir 350.000 flóttamenn komið frá Laos til Thailands. Mikill hluti þeirra er af Meo-ættbálkum, þjóðernisminnihluta sem á tímum Indókínastríðsins barðist með bandaríkjamönnum. Eftir að Bandaríkin biðu ósigur hefur hluti Meo-manna haldið áfram vopnaðri baráttu gegn Pathet Lao-stjórninni, sem er leppstjórn Vietnam á Laos. Í dag ráða hermenn Meoa nokkrum svæðum í Laos, þrátt fyrir ítrekaðar tilraunir til að útrýma þeim.

Meoar sem komið hafa til Thailands sísustu 2 árin halda því fram að stjórnin beiti eiturefnum í hernaði sínum gegn þeim. Þessar ásakanir hafa komið frá Meoum frá ýmsum hlutum Laos. Meoar hafa tekið með sér sýni af eiturefnum sem þeir segja að varpað hafi verið úr lofti á bæi sýna, og enn fremur hafa þeir tekið með sér jurtir sem þeir segja að orðið hafi fyrir eitrunum. Stjórn Thailands lét senda sýnishorn til Bandaríkjanna til rannsókna. Skv. fréttum í Hong Kong blaðinu Far Eastern Economic Review segir talsmenn bandaríska utanríkisráðuneytisins að stjórn Laos hafi beitt eiturgasi í hernaði sínum gegn Meo-ættbálknum. Ásakanir þessar hafa verið staðfestar af háttsettum meðlim úr kommúnistaflokk Laos sem flúði til Thailands. Hann segist hafa heyrt af notkun eiturefna frá hermönnum sem tekið hafi þátt í bardögum við Meoa. Þeir sögðu honum að varpað hefði verið eiturgasi úr vietnömskum flugvélum. Skv. bandarískum heimildum er eiturgasið komið til Víetnam frá Sovétríkjunum.

(Arbejderavisen, nr. 45 1979).

*

## Enn um laun Þóris

Verkalýðsblaðið náði sambandi við Þóri Daníelsson, framhvæmdastjóra Verkamannasambandsins, rétt fyrir áramót og bar undir hann fregn þá um laun hans sem birtist í "jólablaði" VBL.

Þórir staðfesti að hér væri um réttar upplýsingar að ræða. Honum væru laun sín ekkert launungarmál. Hann benti hins vegar á að hér væri um föst laun að ræða - hann fengi enga yfirvinnu greidda, aðeins sannanlegan útlagðan kostnað eins og tíðkaðist yfirleitt.

Þórir vísaði til framkvæmdastjórnar VMSÍ þegar VBL spurði hann hvernig á þessum launum stæði.

Formaður Verkamannasambandsins, Guðmundur J., neitaði hins vegar algerlega að tjá sig um málið, sagði það ekki í sínum verkahring.

óhs.

## Sameining bókagerðar — félaganna

Milli Grafíska sveinafélagsins og Hins íslenska prentarafélags hefur lengi verið ágreiningur um að hve miklu leyti blýsetjarar mættu vinna undirbúningsvinnu fyrir offsetprentun. Þessi ágreiningur hefur staðið hingað til í vegi fyrir sameiningu bókagerðarfélaganna þriggja (þessara tveggja auk bókbindara). Nú hefur þessi ágreiningur hins vegar verið leystur þannig að sameining verður líklega á þessu ári, hafi bókbindarar ekkert við það að athuga.

# STALÍN — 100 ára minning



Þann 21. des. sl. voru 100 ár liðin frá fæðingu Jóseps Stalíns. Stalín gekk snemma til liðs við bolsévíka undir forystu Lenins, vann að málefnum byltingarinnar í Rússlandi, sat nokkrum sinnum í fangelsi og varð að Lenín látnum leiðtogi Sovétríkjanna - fyrsta sósíalíska ríkisins í heiminum og um leið heimshreyfingar kommúnista.

"Afhjúpanir" kremlherranna á Stalín er uppgjör þeirra við sósíalismann. Víða í Sovétríkjunum hélt alþýða upp á 100 ára afmæli Stalíns - meðal hennar á Stalín enn ítök og raunar meðal verkalýðs og kúgaðrar alþýðu um allan heim.

Fyrir okkur kommúnista og verkalýð er mikilvægt að meta hluti Stalíns rétt. Villur hans - sumar alvarlegar og afdrifaríkar - verða að vera víti til varnaðar; framlag hans til marx-lenínismans og sósíalismans leiðbeining í starfi. Hlutverk okkar er hvorki að hefja Stalín til skýjanna né níða hann niður í svaðið, heldur að draga lærdóm af verkum hans í ljósi reynslunnar og sögunnar.

Minning Stalíns mun lifa og framlag hans til baráttu verkalýðs og kúgaðrar alþýðu verður lengi enn notadrjúgt vopn.

M.Sn.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ 1. Tbl. 6. Árg. 7. jan.—21. jan. 1980 5



Halldór H. Jónsson:
Útsvar: 1407,700.-
Tekjur skv. útsvari:
12.8 milljónir.

Hótel Saga
Garðar Gíslason h/f
Ísl. álfélagið.
Eimskipafélag Íslands.
Flugleiðir h/f



Davíð Ólafsson:
Útsvar: 1080.300.-
Tekjur skv. útsvari:
9.8 milljónir.

Fiskveiðasjóður Ísl.
Seðlabankinn



Jónas Haralz:
Útsvar: 1.093.900.-
Tekjur skv. útsvari:
10 milljónir.

Landsbankinn
Fiskveiðasjóður Ísl.



Kristinn Finnbogason:
Útsvar: 1028,600.-
Tekjur skv. útsvari:
9.7 milljónir

Iscargo
Landsbankinn
o.fl. fyrirtæki.



Gunnar Guðbjartsson:
Útsvar:
Tekjur skv. útsvari:

Búnaðarfélagið.
Áburðarverksmiðjan.
Bjargráðasjóður
Hótel Saga
Lífeyrissj.bænda.
Búnaðarbankinn.
o.fl.



Árni Vilhjálmsson:
Útsvar: 1259.300.-
Tekjur skv. útsvari:
11.4 milljónir.

Hampiðjan.
Iðnþróunarstofnun.
o.fl.



Eyjólfur Ísl. Eyjólfss:
Útsvar: 1498.300.-
Tekjur skv. útsvari:
13.6 milljónir

Sölumiðstöð hraðfrystihúsanna.
Umbúðamiðstöðin h/f
Fiskveiðasjóður Ísl.
Fiskifél. Ísl. (Aflatrygg.sjóður)
Verðlagsráð sjávarútvegsins.
Lífeyrissj. Dagsbr. og Framsóknar



Már Elísson:
útsvar: 731.800,-
Tekjur skv. útsvari:
6.7 milljónir.

Fiskifélag Íslands.
Bjargráðasjóður.
Fiskimálasjóður.
Hafrannsóknarstofnun.



Ingvar Vilhjálmsson:
Útsvar: 1182.00.-
Tekjur skv. útsvari:
10.8

Sjóvá.



Vilhjálmur Ingvarsson:
Útsvar: 1.155.800.-
Tekjur skv. útsvari:
10.5

Ísbjörninn H/f
Verðlagsráð sjávarútvegsins.
Eimskipafél. Ísl.
Síldar og fiskimjölsverksmiðjan.
Lífeyrissj. Eimskipafél. Ísl.









# 20 STÓRIR

Hvað er sameiginlegt þessum einstaklingum, sem færðir eru upp hér í yfirlitinu til hliðar?

Þeir ráða yfir geysilegu fjármagni, vinnuafli og verulega stórum þætti í íslensku efnahagslífi.

Um leið og þeir hafa áhrif á annan atvinnurekstur, t.d. með því að stjórna fjárfestingusjóðum, lifa þeir "glæsilegu" eins og sjá má af útvarstölunni (útsvar er 11% af uppgefnum tekjum 1978).

Þessir aðilar eiga ekki fjármagnið sjálfir - þeir eru skriffinnar sem ráðstafa auðmagni. Eigum við að kalla þá möppukapítalista?

Það er sérstaklega athyglisvert að skoða tengslin milli bankanna og sjóðanna og svo fyrirtækjanna eða milli fyrirtækjanna innbyrðis. Vísir að auðhringjum verða til og í ljós kemur að einokun er veruleg t.d. í samgöngum og iðnaði. Skyldi einhver stjórnarmanna í Iðnlánasjóði, sem situr líka í stjórn veiðafæraverksmiðju, geta stöðvað fjármagn til smáfyrirtækja í sömu grein til þess að útiloka samkeppni?

Upplýsingar sem hér birtast eru fegnar úr opinberum plöggum. Myndin er ófullkomin, en sýnir hluta af voldugasta hluta íslenska auðvalds - einokunarauðvaldsins. Setur manna í nefndum og ráðum ríkisins eru ótaldar.

Nánar um Flugleiðir

Tengsl Flugleiða við önnur fyrirtæki. Flugleiðir eiga hlut í eða alfarið nokkur fyrirtæki. Auk þess sitja eigendur og/ eða stjórnendur Flugleiða í stjórnum fjölda annarra fyrirtækja. Myndir sýnir hvernig Flugleiðir tengja arma sína yfir og inn í önnur fyrirtæki.




Nánar um SÍS

Samband ísl. samvinnufélaga er ekki aðeins samband kaupfélaganna á Islandi, heldur ná armar SÍS yfir og inn í stór og mikilvæg fyrirtæki, sem ekki koma kaupfélögunum annars við. Sum þessara fyrirtækja eru alfarið í eigu SÍS, önnur að hluta til og í enn öðrum er um að ræða "fulltrúa" SÍS, í stjórn fyrirtækjanna. Það er vert athygli að SÍS-áhrifin ná til allra greina atvinnulífs - hráefnaöflunar, iðnaðar, flutninga og þjónustu. Bókstaflega er enginn kimi íslensks atvinnulífs undanskilinn. Eftirfarandi listi er líklega ekki tæmandi en gefur þó góða mynd af auðhringum SÍS.

Kaffibrennsla Akureyrar.
Skipaútgerð SÍS.
Kirkjusandur h/f (frystihús)
Icel. Products Ldt.
Samvinnubankinn.
Sjöfn.
Áburðarverksmiðjan.
Jötunn.
Arnarflug.
Dráttarvélar h/f
Andvari (líftr.félag).

Dyngja.
Höttur.
Alþýðuorlof.
Meitillinn Þorlákshöfn.
Samvinnutryggingar.
Gefjun.
Iðunn.
Osta og smjörsalan.
Samvinnuferðir.
Olíufélag Íslands.
auk deilda og kaupfélaga ásamt frystihúsum um allt land.

Á Alþingi finnast fáir raunverulegir valdamenn. Hér má þó sjá einn í táknrænum fararbroddi.



Landsvirkjun
Guðm. Vigfússon

Alþýðubankinn
Benedikt Davíðss

Búnaðarbankinn
Helgi Seljan

Samband lífeyrissjóða
Eðvarð Sigurðsson
Benedikt Davíðss.

Áburðarverksm.
Guðm. Hjartarson

Landsbankinn
Einar Olgeirsson

BÚR
Sigurjón Péturss.
Kristvin Kristv.s.

Sparisjóður Rvk. og nágrennis
Sigurjón Péturss.

Ferðamiðstöðin
Útflutningsversl. Friton
Örn Erlendsson

Fiskimálasjóður
Karl Sigurbergss.

Seðlabankinn
Guðm. Hjartarson
Ingi R. Helgason

KRON
Adda Bára Sigfúsd.

Innflutn.versl.
Ægir Ólafsson

# Ríkiskapitalismi og ráðherrasósíalismi

Innan Framsóknarflokks og Sjálfstæðisflokks er vísi einokunarauðherranna að finna. Flokkarnir í heild gera sem mest af því að reyna að fela hagsmunaárekstra "sjálfstæðu" peningafurstanna og einokunargreifanna.

Hvað gerir hins vegar yfirlýstur "flokkur verkalýðsins"? Hann lítur á uppkomu og þróun einokunarauðvaldsins sem lið í að umbreyta þjóðfélaginu í "sósíalíska hagkerfi". Stór orð?

Nei - Sósíalistaflokkurinn og Alþýðubandalagið haða stutt og beitt sér fyrir einokun ríkisvaldsins eða stórfyrirtækja. Síldarverksmiðjur ríkisins eru gamalt dæmi, samruni Loftleiða og Flugfélagsins eru nýtt dæmi. Á tímum "vinstri" stjórnar 1971-1974 var gerð iðnþróunaráætlun sem tók tillit til samruna fyrirtækja og "hagræðingar".

Alþýðubandalagið telur leiðina til sósíalismans vera þá, að mynda sterk og stór fyrirtæki, í ríkiseign eða ríkisumsjá, og að "verkafólkið" nái síðan yfirráðum í stjórnum fyrirtækjanna í krafti þingmeirihluta Alþýðubandalags. Síðan er reksturinn "umskapaður" í sósíalíska átt með atvinnulýðræði o.s.frv:

Hingað til hefur þessi stefna styrkt einokunarauðvaldið. Áralöng seta Alþýðubandalagsmanna í mörgum fyrirtækjum, bankaráðum og fjárfestingasjóðum hefur greitt fyrir einokunarþróuninni ef nokkuð er.

Hér til hliðar er listi yfir nokkra bitlinga Alþýðubandalagsins. Listinn er ekki tæmandi.

Alþýðubandslaðið ræðst ekki gegn einokunarauðvaldinu. Eina tilraunin var krafa Ólafs Ragnars Grímssonar um rannsókn á viðskiptaháttum og tengslum Flugleiða og Eimskips. Ólafur koðnaði niður. Hvers vegna?

-agé.

# Baráttan gegn einokunar — auðvaldinu

Einokunarauðmennirnir ráða miklu í stjórnkerfi og efnahagskerfi landsins. Það liggur nokkur alvara á bakvið orð margra: Seðlabankinn stjórnar landinu.

EIK (m-l) hafa ekki mótað nákvæma stefnu varðandi baráttuna gegn einokunarauðvaldinu, enda gerist það oft best frá málefni til málefnis.

Nokkur aðalatriði eru þessi að mínu mati:

1. EIK (m-l) krefjast þess að fyrirtæki séu ekki lögð niður eða þeim steypt saman ef það hefur kjararýrnun og stöðumissi fyrir vinnandi fólk í för með sér, eða ef það leiðir til eyðingar byggðar og fólksflótta. Barátta gegn slíku verður að eiga sér rætur í verkalýðsfélögum, bæjar- og sveitastjórnum og meðal fólksins sjálfs sem á í hlut.
2. EIK (m-l) eru andvíg fjárfestingum erlendis sem valda kjararýrnun eða atvinnumissi hér heima eða bitna á alþýðu annarra landa.
3. EIK (m-l) krefjast þess að stórfyrirtækin séu sköttuð til fulls og að sett séu lög sem banna hringamyndun. Í ákveðnum tilvikum gætu samtökin tekið undir kröfur um þjóðnýtíngu.

Sósíalisminn felst í því að gera stórfyrirtækin upptæk, meðal annars, og skipta um ríkisvald - stjórnform, fulltrúana, lögin og framkvæmdavaldið. Einokunarþróunin býr um margt í haginn fyrir sósíalismann - stór, vel skipulögð félagsleg fyrirtæki útheimta vissulega annað eignar- og stjórnarform en úttektir í Verkalýðsblaðinu sýnir að þessu sinni - nokkrar tylftir gráðugra peningafursta.

-agé.

Benedikt Gröndal:
(verkfræðingur)
Útsvar: 907.600.-
Tekjur skv. útsvari:
8.3. milljónir

Hamar h/f
Ísaga
Íshús Hafnarfjarðar.
Járnsteypan.
Stálsmiðjan.
Slippfélagið h/f.



Haukur Björnsson:
Útsvar: 277.600.-
Tekjur skv. útsvari:
2.5 milljónir (,)

Arnarflug.
Iðnrekstarsjóður
Karnabær.
B.Stefánsson h/f.



Davíð Sch.Thorsteinss:
Útsvar: 1.151.900.-
Tekjur skv. útsv.
10.5 milljónir

Smjörlíki h/f.
Pólstjarnan.
J.P.Guðjónsson.
Sól h/f.



Gunnar J.Friðriksson:
Útsvar:1462.500.-
Tekjur skv. útsvari:
13.5 milljónir.

Hampiðjan
Iðnþróunarstofnun.
Iðnaðarbankinn.
Iðnlánasjóður.
Ísl. álfélagið.
Frygg
Smjörlíki h/f
Sól h/f



Jóhannes Norðdal:
Útsvar: 1340.600,-
Tekjur skv. útsvari:
12.2 milljónir.

Iðnþróunarsjóður.
Landsvirkjun.
Seðlabankinn.



Bragi Hannesson:
Útsvar: 1155.700.-
Tekjur skv. útsvari:
10.5 milljónir.

Hampiðjan
Iðnþróunarsjóður.
Iðnaðarbankinn.
Iðnrekstarsjóður.
Iðnlánasjóður.



Svanbjörn Frímannsson:
Útsvar: 1074.600.-
Tekjur skv útsvari:
9.6 milljónir.

Flugleiðir
Kassagerðin.
Landsbankinn.



Erlendur Einarsson:
Útsvar:
Tekjur skv. útsvari:
13.1 milljón.

SÍS
og fl. einkum tengd SÍS



Thor R Tors:
Útsvar: 303.00
Tekjur skv útsv.
2.7 milljónir (?)

Eimskipafélag Ísl.
Ísl aðalverktakar.
Björninn h/f



Stefán Jónsson:
Útsvar:
Tekjur skv. útsv.

Ísl álfélagið.
Lýsi og mjöl h/f.
Bæjarútg Hafnafjarðar.



Geir Hallgrímsson:
og fjölsk.
Útsvar: 1451.200.-
Tekjur skv. útsvari:
13.2 milljónir.

Sjóvá.
Nói h/f
Hreinn
Ræsir h/f
H.Ben.
Skeljungur h/f
auk 9 eða 10 annarra fyrirtækja



Halldór H.Jónsson:
Útsvar: 1407,700.-
Tekjur skv. útsvari:
12.8 milljónir.

Hótel Saga
Garðar Gíslason h/f
Ísl. álfélagið.
Eimskipafélag Íslands.
Flugleiðir h/f



Davíð Ólafsson:
Útsvar: 1080.300.-
Tekjur skv. útsvari:
9.8 milljónir.

Fiskveiðasjóður Ísl.
Seðlabankinn



Jónas Haralz:
Útsvar: 1.093.900.-
Tekjur skv. útsvari:
10 milljónir.

Landsbankinn
Fiskveiðasjóður Ísl.



Kristinn Finnbogason:
Útsvar: 1028,600.-
Tekjur skv. útsvari:
9.7 milljónir

Iscargo
Landsbankinn
o.fl. fyrirtæki.



Gunnar Guðbjartsson:
Útsvar:
Tekjur skv. útsvari:

Búnaðarfélagið.
Áburðarverksmiðjan.
Bjargráðasjóður
Hótel Saga
Lífeyrissj.bænda.
Búnaðarbankinn.
o.fl.



Árni Vilhjálmsson:
Útsvar: 1259.300.-
Tekjur skv. útsvari:
11.4 milljónir.

Hampiðjan.
Iðnþróunarstofnun.
o.fl.



Eyjólfur Ísl.Eyjólfss:
Útsvar: 1498.300.-
Tekjur skv. útsvari:
13.6 milljónir

Sölumiðstöð hraðfrystihúsanna.
Umbúðamiðstöðin h/f
Fiskveiðasjóður Ísl.
Fiskifél.Ísl.(Aflatrygg.sjóður)
Verðlagsráð sjávarútvegsins.
Lífeyrissj. Dagsbr. og Framsóknar



Már Elísson:
útsvar: 731.800,-
Tekjur skv. útsvari:
6.7 milljónir.

Fiskifélag Íslands.
Bjargráðasjóður.
Fiskimálasjóður.
Hafrannsóknarstofnun.



Ingvar Vilhjálmsson:
Útsvar: 1182.00.-
Tekjur skv.útsvari:
10.8

Sjóvá.



Vilhjálmur Ingvarsson:
Útsvar: 1.155.800.-
Tekjur skv. útsvari:
10.5

Ísbjörninn H/f
Verðlagsráð sjávarútvegsins.
Eimskipafél. Ísl.
Síldar og fiskimjölsverksmiðjan.
Lífeyrissj. Eimskipafél. Ísl.









# 20 STÓRIR

Hvað er sameiginlegt þessum einstaklingum, sem færðir eru upp hér í yfirlitinu til hliðar?

Þeir ráða yfir geysilegu fjármagni, vinnuafli og verulega stórum þætti í íslensku efnahagslífi.

Um leið og þeir hafa áhrif á annan atvinnurekstur, t.d. með því að stjórna fjárfestingusjóðum, lifa þeir "glæsilegu" eins og sjá má af útvarstölunni (útsvar er 11% af uppgefnum tekjum 1978).

Þessir aðilar eiga ekki fjármagnið sjálfir - þeir eru skriffinnar sem ráðstafa auðmagni. Eigum við að kalla þá möppukapítalista?

Það er sérstaklega athyglisvert að skoða tengslin milli bankanna og sjóðanna og svo fyrirtækjanna eða milli fyrirtækjanna innbyrðis. Vísir að auðhringjum verða til og í ljós kemur að einokun er veruleg t.d. í samgöngum og iðnaði. Skyldi einhver stjórnarmanna í Iðnlánasjóði, sem situr líka í stjórn veiðafæraverksmiðju, geta stöðvað fjármagn til smáfyrirtækja í sömu grein til þess að útiloka samkeppni?

Upplýsingar sem hér birtast eru fegnar úr opinberum plöggum. Myndin er ófullkomin, en sýnir hluta af voldugasta hluta íslenska auðvalds - einokunarauðvaldsins. Setur manna í nefndum og ráðum ríkisins eru ótaldar.

## Nánar um Flugleiðir

Tengsl Flugleiða við önnur fyrirtæki. Flugleiðir eiga hlut í eða alfarið nokkur fyrirtæki. Auk þess sitja eigendur og/ eða stjórnendur Flugleiða í stjórnum fjölda annarra fyrirtækja. Myndir sýnir hvernig Flugleiðir tengja arma sína yfir og inn í önnur fyrirtæki.




## Nánar um SÍS

Samband ísl. samvinnufélaga er ekki aðeins samband kaupfélaganna á Islandi, heldur ná armar SÍS yfir og inn í stór og mikilvæg fyrirtæki, sem ekki koma kaupfélögunum annars við. Sum þessara fyrirtækja eru alfarið í eigu SÍS, önnur að hluta til og í enn öðrum er um að ræða "fulltrúa" SÍS, í stjórn fyrirtækjanna. Það er vert athygli að SÍS-áhrifin ná til allra greina atvinnulífs - hráefnaöflunar, iðnaðar, flutninga og þjónustu. Bókstaflega er enginn kimi íslensks atvinnulífs undanskilinn. Eftirfarandi listi er líklega ekki tæmandi en gefur þó góða mynd af auðhringum SÍS.

Kaffibrennsla Akureyrar.
Skipaútgerð SÍS.
Kirkjusandur h/f (frystihús)
Icel. Products Ldt.
Samvinnubankinn.
Sjöfn.
Áburðarverksmiðjan.
Jötunn.
Arnarflug.
Dráttarvélar h/f
Andvari (líftr.félag).
Dyngja.
Höttur.
Alþýðuorlof.
Meitillinn Þorlákshöfn.
Samvinnutryggingar.
Gefjun.
Iðunn.
Osta og smjörsalan.
Samvinnuferðir.
Olíufélag Íslands.
auk deilda og kaupfélaga ásamt frystihúsum um allt land.

Á Alþingi finnast fáir raunverulegir valdamenn. Hér má þó sjá einn í táknrænum fararbroddi.



Landsvirkjun
Guðm. Vigfússon

Alþýðubankinn
Benedikt Davíðss

Búnaðarbankinn
Helgi Seljan

Samband lífeyrissjóða
Eðvarð Sigurðsson
Benedikt Davíðss.

Áburðarverksm.
Guðm. Hjartarson

Landsbankinn
Einar Olgeirsson

BÚR
Sigurjón Péturss.
Kristvin Kristv.s.

Sparisjóður Rvk. og nágrennis
Sigurjón Péturss.

Ferðamiðstöðin
Útflutningsversl. Friton
Örn Erlendsson

Fiskimálasjóður
Karl Sigurbergss.

Seðlabankinn
Guðm. Hjartarson
Ingi R. Helgason

KRON
Adda Bára Sigfúsd.

Innflutn.versl.
Ægir Ólafsson

# Ríkiskapitalismi og ráðherrasósíalismi

Innan Framsóknarflokks og Sjálfstæðisflokks er vísi einokunarauðherranna að finna. Flokkarnir í heild gera sem mest af því að reyna að fela hagsmunaárekstra "sjálfstæðu" peningafurstanna og einokunargreifanna.

Hvað gerir hins vegar yfirlýstur "flokkur verkalýðsins"? Hann lítur á uppkomu og þróun einokunarauðvaldsins sem lið í að umbreyta þjóðfélaginu í "sósíalíska hagkerfi". Stór orð?

Nei - Sósíalistaflokkurinn og Alþýðubandalagið haða stutt og beitt sér fyrir einokun ríkisvaldsins eða stórfyrirtækja. Síldarverksmiðjur ríkisins eru gamalt dæmi, samruni Loftleiða og Flugfélagsins eru nýtt dæmi. Á tímum "vinstri" stjórnar 1971-1974 var gerð iðnþróunaráætlun sem tók tillit til samruna fyrirtækja og "hagræðingar".

Alþýðubandalagið telur leiðina til sósíalismans vera þá, að mynda sterk og stór fyrirtæki, í ríkiseign eða ríkisumsjá, og að "verkafólkið" nái síðan yfirráðum í stjórnum fyrirtækjanna í krafti þingmeirihluta Alþýðubandalags. Síðan er reksturinn "umskapaður" í sósíalíska átt með atvinnulýðræði o.s.frv:

Hingað til hefur þessi stefna styrkt einokunarauðvaldið. Áralöng seta Alþýðubandalagsmanna í mörgum fyrirtækjum, bankaráðum og fjárfestingasjóðum hefur greitt fyrir einokunarþróuninni ef nokkuð er.

Hér til hliðar er listi yfir nokkra bitlinga Alþýðubandalagsins. Listinn er ekki tæmandi.

Alþýðubandsblaðið ræðst ekki gegn einokunarauðvaldinu. Eina tilraunin var krafa Ólafs Ragnars Grímssonar um rannsókn á viðskiptaháttum og tengslum Flugleiða og Eimskips. Ólafur koðnaði niður.Hvers vegna? -agé.

# Baráttan gegn einokunar — auðvaldinu

Einokunarauðmennirnir ráða miklu í stjórnkerfi og efnahagskerfi landsins. Það liggur nokkur alvara á bakvið orð margra: Seðlabankinn stjórnar landinu.

EIK (m-l) hafa ekki mótað nákvæma stefnu varðandi baráttuna gegn einokunarauðvaldinu, enda gerist það oft best frá málefni til málefnis.

Nokkur aðalatriði eru þessi að mínu mati:

1. EIK (m-l) krefjast þess að fyrirtæki séu ekki lögð niður eða þeim steypt saman ef það hefur kjararýrnun og stöðumissi fyrir vinnandi fólk í för með sér, eða ef það leiðir til eyðingar byggðar og fólksflótta. Barátta gegn slíku verður að eiga sér rætur í verkalýðsfélögum, bæjar- og sveitastjórnum og meðal fólksins sjálfs sem á í hlut.
2. EIK (m-l) eru andvíg fjárfestingum erlendis sem valda kjararýrnun eða atvinnumissi hér heima eða bitna á alþýðu annarra landa.
3. EIK (m-l) krefjast þess að stórfyrirtækin séu sköttuð til fulls og að sett séu lög sem banna hringamyndun. Í ákveðnum tilvikum gætu samtökin tekið undir kröfur um þjóðnýtingu.

Sósíalisminn felst í því að gera stórfyrirtækin upptæk, meðal annars, og skipta um ríkisvald - stjórnform, fulltrúana, lögin og framkvæmdavaldið. Einokunarþróunin býr um margt í haginn fyrir sósíalismann - stór, vel skipulögð félagsleg fyrirtæki útheimta vissulega annað eignar- og stjórnarform en úttektir í Verkalýðsblaðinu sýnir að þessu sinni - nokkrar tylftir gráðugra peningafursta.

-agé.

Benedikt Gröndal:
(verkfræðingur)
Útsvar: 907.600.-
Tekjur skv. útsvari:
8.3. milljónir

Hamar h/f
Ísaga
Íshús Hafnarfjarðar.
Járnsteypan.
Stálsmiðjan.
Slippfélagið h/f.



Haukur Björnsson:
Útsvar: 277.600.-
Tekjur skv. útsvari:
2.5 milljónir (,)

Arnarflug.
Iðnrekstarsjóður
Karnabær.
B.Stefánsson h/f.



Davíð Sch.Thorsteinss:
Útsvar: 1.151.900.-
Tekjur skv. útsv.
10.5 milljónir

Smjörlíki h/f.
Pólstjarnan.
J.P.Guðjónsson.
Sól h/f.



Gunnar J.Friðriksson:
Útsvar:1462.500.-
Tekjur skv. útsvari:
13.5 milljónir.

Hampiðjan
Iðnþróunarstofnun.
Iðnaðarbankinn.
Iðnlánasjóður.
Ísl. álfélagið.
Frygg
Smjörlíki h/f
Sól h/f



Jóhannes Norðdal:
Útsvar: 1340.600,-
Tekjur skv. útsvari:
12.2 milljónir.

Iðnþróunarsjóður.
Landsvirkjun.
Seðlabankinn.



Bragi Hannesson:
Útsvar: 1155.700.-
Tekjur skv. útsvari:
10.5 milljónir.

Hampiðjan
Iðnþróunarsjóður.
Iðnaðarbankinn.
Iðnrekstarsjóður.
Iðnlánasjóður.



Svanbjörn Frímannsson:
Útsvar: 1074.600.-
Tekjur skv útsvari:
9.6 milljónir.

Flugleiðir
Kassagerðin.
Landsbankinn.



Erlendur Einarsson:
Útsvar:
Tekjur skv. útsvari:
13.1 milljón.

SÍS
og fl. einkum tengd SÍS



Thor R Tors:
Útsvar: 303.00
Tekjur skv útsv.
2.7 milljónir (?)

Eimskipafélag Ísl.
Ísl aðalverktakar.
Björninn h/f



Stefán Jónsson:
Útsvar:
Tekjur skv. útsv.

Ísl álfélagið.
Lýsi og mjöl h/f.
Bæjarútg Hafnafjarðar.



Geir Hallgrímsson:
og fjölsk.
Útsvar: 1451.200.-
Tekjur skv. útsvari:
13.2 milljónir.

Sjóvá.
Nói h/f
Hreinn
Ræsir h/f
H.Ben.
Skeljungur h/f
auk 9 eða 10 annarra fyrirtækja

# Deilur í Eik(m-l) um kvenna-spurning-una

skiptar skoðanir

Ein af forsendum þess að VBL geti orðið lifandi blað er að menn deili sín í milli í dálkum blaðsins. Ritnefnd hefur nú í hyggju að opna fasta síðu eða hluta úr síðu, þar sem menn geta viðrað skoðanir sínar og andstöðu og komist til botns í vandamálum kommúnistahreyfingarinnar á Íslandi.

Að þessu sinnu birtum við hér tvær greinar önnur er fengin að láni úr innanfélagsumræðu í EIK (m-l) og er skrifuð undir dulnefni. Svargreinin var skrifuð að tilhlutan ritnefndar. Báðar fjalla þær um kvennabaráttuna og hvernig beri að heyja hana.

Auk kvennabaráttunnar verður vafalaust ekki hjá því komist að hleypa af stokkunum ritdeilu um framtíð vinstri hreyfingarinnan á Íslandi, hvernig standa beri að því að byggja upp verkalýðsflokk við íslenskar aðstæður. En til að byrja með skulum við einbeita okkur að kvennaspurningunni.



Frá stofnfundi 8. mars hreyfingarinnar 1. febrúar 1978. Var stofnun hennar reginmistök?

## Eru mistök í aðsigi?

Kvennabarátta er eitt þeirra mála sem hafa verið hornreka í umræðu innan samtakanna, a.m. k. frá því snemma s.l. vor. Nokkrum konum innan samtakanna var falið það verkefni að skipuleggja og leggja drög að nýjum aðferðum til að virkja konur til baráttu.

En við það hefur verið látið sitja. Konurnar hafa einangrast. Enginn hefur einu sinni viljað ræða við þær um vandamálin...

### Hvað skal gera?

Eftir því sem ég hef komist næst eru hugmyndir "kvennadeildarinnar" (afsakið nafngiftina) um hvað skuli gera afar óljósar - enda hefur lítið sést um þær á prenti. Mér virðist að vinsælust sé sú skoðun að kvennastarfið þurfi að byggja upp sem breiðfylkingarstarf - ein samtök á breiðum grundvelli sem fær séu um að taka upp og berjast fyrir hinum sérstöku kvennamálum og - ekki síst - sem séu vettvangur fyrir konur til þess að hittast og ræða saman. Jafnframt þessu er sterk tilhneiging til að ætla að Rauðsokkahreyfingin sé sá stofn sam þessi breiðfylking mun myndast í kringum.

Mér finnst hér vera um verulega og alvarlega ein földun að ræða. "Kvennavandamálið" er alls ekki fábrotið. Það snertir flest svið þjóðlífsins og stéttabaráttunnar, auk þess sem konur eru alls ekki eins-leitur hópur. Skipulagsform kvennabaráttunnar hljóta því og verða að vera margbrotin og ná til ólíkra hópa á ýmsum tímum. Á þessu ári sem er að líða höfum við orðið vitni að þremur ólíkum hreyfingum kvenna til baráttu fyrir ólíkum kvennakröfum; þrjú skipulagsform sem alls ekki hafa getað falist innan einnar breiðhreyfingar. Hér á ég við launajöfnunar baráttu starfsstúlkna á spítulum á Akranesi, í Vestmannaeyjum og Reykjavík í ársbyrjun. Ég á hér við dagvistarsamstarfið í vor. Og ég á hér við baráttuna gegn niðurskurði á ríkisspítulunum nú í haust.

### Umbótabarátta - sósíalismi

Sú samfylkingarbarátta sem höfðar helst til kvenna í dag er í eðli sínu umbótabarátta. Hún nær ekki út fyrir ramma auðvaldsþjóðfélagsins og bendir ekki sjálfkrafa á sósíalismann sem einu raunhæfu leiðar innar til afnáms kynjamisréttisins. Og varla getum við marx-lenínistar dregið í efa mikilvægi þess að tengja kvennabaráttuna og sósíalismann. Engu að síður hef ég það fyrir satt að það setji kuldahroll að sumum félögum okkur í kvennastarfinu í hvert sinn sen sósíalismi er nefndur í sömu andrá og kvennabarátta.

### Skipulagsformin

Ég vil ekki ofbjóða lestrarþoli lesenda með löngum og ýtarlegum bollaleggingum. Áherslan hjá mér er á eftirfarandi: Annars vegar þurfum við að hafa skipulagsform sem kemur á framfæri sósíalískum hugmyndum og skólar konur í sósíalískri heimsskoðun og byltingarstefnu. Hins vegar þurfum við margvísleg skipulagsform sem þjóna ólíkum hópum kvenna á ýmsum tímum í dægur- og umbótabaráttunni. Þar finnst mér sagan hafa sýnt að stéttarfélögin gegna veigamestu hlutverki ásamt málefnabundnum samfylkingum.

Starf innan Rauðsokkahreyfingarinnar getur verið liður í þessari baráttu - bæði til að útbreiða sósíalískar hugmyndir og til að Rauðsokkar nýtist betur til átaka.

### Breiðfylking - grasrótarstarf

Ég hafna ekki breiðfylkingu. En einhvern veginn finnst mér byrjað á öfugum enda að leggja mesta áherslu á hana í dag. Hvað þá að veðja öllu á Rauðsokkahreyfinguna. Ég get ekki ímyndað mér raunverulega breiðfylkingu (sem er eitthvað annað en breiður grundvöllur á skjali) nema sem afrakstur hreyfingar sem byrjar víða, meðal margra hópa, á ýmsum tímum, fálmandi í fyrstu en vaxandi af meðvitund, styrk og fjöldaþátttöku fyrst og fremst hreyfing. Breiðfylking - ein og allt annað í þjóðfélaginu - getur ekki orðið til nema baráttuleg þörf sé fyrir hana, hreyfingin sé farin af stað. Eins og Marx orðaði það "Mannkynssagan setur sér engin önnur verkefni en þau sem hún getur leyst." Ég sé í dag ekki nauðsynina á breiðfylkingu. Hins vegar sé ég nauðsyn á grasrótarstarfi án milliliða.

Hergeir.

## Staða alþýðukvenna er hrapaleg

Ég var beðin að svara greininni "Eru mistök í aðsigi?" og mun gera það lítillega sem einstaklingur, en láta margt ósagt. Ég hef ekki tíma til að fara ofaní saumana á þessum viðamikla máli (barnakona, maki vinnur mikið og er einnig í pólitík).

Ég er sammála Hergeiri að umræða um kvennabaráttuna hafi verið hornreka innan EIK(m-l). "Konurnar hafa einangrast" segir greinarhöfundur. Það er rétt, en á hins vegar við um almennt ástand EIK(m-l) en ekki kvennanefnd frekar en aðrar starfseiningar. Það pólitíska vandamál er enn í skoðunarbaráttu innan samtakanna. Að mínu mati er mikill vilji hjá mörgum í þá átt að leysa EIK(m-l) úr viðjum einstrengingsháttar varðandi menn og málefni, en reyna að fara að skoða þjóðfélagsástandið hlutlægt.

### 8. mars hreyfingin verður að taka afstöðu til Rsh.

Þar sem Rauðsokkahreyfingin hefur verið til og er til með framsækinn grundvöll, verður 8. mars hreyfingin að taka afstöðu til hennar og kommúnistarnir líka. Ég sé ekki að það að 8. mars hreyfingin verði lögð niður og hluti þeirra kvenna sem þar störfuðu gangi til starfa með Rsh. útiloki á nokkurn hátt starf í stéttarfélögum. Ekki þarf það heldur að útiloka starf kvenna í samfylkingum um eitt og eitt málefni af því tagi sem greinarhöfundur nefnir. Þvert á móti finnst mér hin hrapalega staða alþýðukvenna á Íslandi í dag knýja á um, að þær fáu konur hér í bæ, sem eru tilbúnar að rífa sig upp í að berjast varnarbaráttu og framsækinni baráttu, sameini kraftana, bæti stefnuna og hnitmiði starfið. Falleg orð, segir einhver. Ég held að ekki sé pláss fyrir tvær kvennahreyfingar með jafnlíkar stefnuskrár og þessar.

Þörfin fyrir breiðfylkingu er brýn. Látum reyna á það hvort Rsh. getur rifið sig upp í að verða raunveruleg breiðfylking alþýðukvenna - ekki á einni nóttu samt. Trúi ég því, að þar finnist heiðvirðar baráttukonur.

### Úr breiðfylkingu til starfa í málefnabundnum samfylkingum

Félagar í breiðfylkingunni eiga auðvitað ekki að einangrast í innra starfi með það að markmiði að halda breiðfylkingunni gangandi, heldur hrærast í þeim baráttumálum sem eru á döfinni. T.d. þeim sem greinarhöfundur nefnir. Breiðfylkingin á einnig að ýta málum úr vör. Sem kommúnisti finnst mér ég ekki geta beðið eftir því í tíu ár að öflug breiðfylking spretti upp. Ég tel það skyldu mína að hjálpa þróun hennar með því að potast áfram í baráttu fyrir málefnum kvenna í þeim litla tíma sem ég hef aflögu.

### Breiðfylking styðji stéttarfélagsstarf

Ég hef heyrt þá gagnrýni að það myndi t.d. ekki hjálpa Sóknarkonu neitt að ganga í Rsh. Miðað við þann litla tíma sem konan hefði aflögu til félagsstarfa yrði hún að velja og meta og sé mikilvægara að starfa í Sókn en Rsh. þá yrði ég hjartanlega sammála.

Mér finnst líka að með bættari vinnubrögðum ætti Rsh. að styðja meira við bakið á framsækinni baráttu í verkakvennafélögunum. Ég hefði t.d. ekkert á móti því, þótt ég sé húsmóðir, að verja tíma mínum sem ég ætlaði til starfa í Rsh. til að standa með söfnunarbauk fyrir Sóknarkonur í verkfalli, ef þörf krefði. Næði Rsh. að sýna oft stuðning við baráttu verkakvennafélaganna í verki, fengu e.t.v. fleiri konur úr þessum félögum áhuga með tímanum á að styðja kvennabaráttu í víðara samhengi, og ganga til liðs við breiðfylkinguna eða leggja vinnu í eitt og eitt baráttumál sem væri á döfinni hjá henni. (T.d. þær konur sem hafa stálpaða krakka og ekki eins hrjáðar af tímaskorti). Þetta gerist heldur ekki yfir nótt.

### Á kvennahreyfing að verða sósíalísk?

Því miður hef ég ekki enn hitt í 8. mars hreyfingunni neinn sem fær kuldahroll ef sósíalismi er nefndur á nafn. Ef svo væri, væri 8. mars hreyfingin e.t.v. vísir að breiðfylkingu. Það væri nú aldeilis dásamlegt að hafa stóra breiðfylkingu kvenna og margar konur skjálfandi innanborðs þegar minnst væri á sósíalisma. Þá væri vitundarstig kvenna almennt komið á það stig að hægt væri að spyrja þessar konur hvernig þjóðfélag og hvernig sósíalisma við eigum að byggja upp. Við þau svör sem kæmu myndum við kommúnistarnir vita miklu meira um hvernig við eigum að þjóna fjöldanum.

### Sósíalisminn á ekki að vera bannorð

Sósíalisminn á ekki að vera bannorð í breiðfylkingu kvenna. En eins og staðan er í dag finnst mér fráleitt að konur þurfi að heitbindast trú á hann þótt þær starfi að úrbótum í sínum málum.

Alþýðukonur verða að þrauka út þennan mánuð og svo þann næsta.

- húsmóðir

*

(Frá ritnefnd: Þar sem grein "húsmóður" varð ansi löng hjá henni neyðumst við til að geyma síðari helminginn til næsta blaðs. Hann fjallar aðallega um Rsh. og 8. mars hreyfinguna.)

# Valdajafnvægi og friðarhjal

stríðshættan

Um þessar mundir ræður Varsjárbandalagið yfir 940.000 manns undir vopnum, 21.100 skriðdrekum, 4.100 flugvéum og yfir 10.000 fallbyssum í Mið- og Norður-Evrópu.

Sambærilegar tölur NATÓ á sama svæði eru 670.000 manns undir vopnum, 7.300 skriðdrekar, 2.400 flugvélar og 2.700 fallbissur.

Í síðasta mánuði lýsti Brésnef því yfir á Austur-Berlín, að ætlun Sovélríkjanna væri að flytja 20.000 manns og 1.000 skriðdreka frá Austur-Þýskalandi. Í ljósi ofannefndra talna þarf fólk ekki að verða hissa. Hér er nefnilega um smáræði að ræða sem ekki skiptir máli fyrir valdajafnvægið. Ef jafnvægi skyldi kalla.

Samtímis varaði Brésneff NATÓ-ríkin við að koma sér upp meðaldrægum eldflugum með kjarnaoddum. Sjálfir hafa Sovétmenn komið sér upp kerfi slíkra eldflauga af gerðinni SS-20. Hrossakaup voru í boði, ef NATÓ fengi sér engar slíkar gæti komið til greina að Sovétmenn fækkuðu ofurlítið sínum.

Að lokum má geta þess, að Brésneff notaði tækifærið til að vera viðstaddir stærstu hersýningu sem haldin hefur verið í Austur-Þýskalandi. Til sýnis voru m.a. skriðdrekar af gerðinni T-72, en það er nýjasti og besti sovéski skriðdrekinn. Sá hefur brynvörn, sem 80 af hverjum 100 skriðdrekavopnum versurveldanna. Og Austur-Þýskaland hefur fengið 360 stykki T-72. Skyldu það ekki vera sæmilegar bætur fyrir 1000 af eldri gerðum?

(Heimildir: Beijing Review og Klassekampen).

á döfinni

Verkalýðsblaðið kemur aðeins út hálfsmánaðarlega. Á mörgum merkismálum getum við ekki tekið. Þessum dálki, Á döfinni, er ætlað að tæpa á þessum málum, þannig að afstaða okkar komi í ljós þótt ófullkomið sé.

## FLUGLEIÐIR SEGJA UPP 135 MANNS

Í des. s.l. tilkynntu Flugleiðir enn eina fjöldauppsögnina. Margir hugsa eflaust sem svo að það sé bara rétt mátulegt á flugmenn - þeir hafa hvort eð er svo glæfraleg laun. En af þessum 135 eru aðeins 24 flugmenn. Velflestir starfsmenn Flugleiða eru ekki of sælir af launum sínum. Meðaltalið 1978, skv. Frjálsri verslun, voru 4 milljónir á mann. Andstaða gegn þessum uppsögnum eru réttmætar.

## FELULEIKURINN ÁFRAM

Það var ekki stórt sem lak út úr dómskerfinu í fréttatilkynningu þeirri er Vilmundur ráðherra lét frá sér fara 26. nóv. s.l. Mætti helst halda að meðferð skipakaupsmálanna svonefndu í kerfinu sé til þess gerð að finna leiðir til að gera atferlið "löglegt".

## FLÉTT OFAN AF ÁLVERINU

Í des. s.l. urðu mikil blaðaskrift um Álverið og bókhaldsbrögð þess til að komast hjá að greiða skatta til íslenska ríkisins ásamt eindæma lágt raforkuverð sem verið greiðir. Forráðamenn versins hafa brugðist hart við en hvorki tekist að afsanna staðhæfingar um það hafi staðið undir reksti Aluswiss í Bretlandi á árunum ´75 - ´76 á sama tíma og hallarekstur átti að vera hér á landi né að sýna fram á að raforkuverð hér á landi er ekki það lægsta í heiminum.

## KJARAMÁLARÁÐSTEFNUNNI FRESTAÐ

Eins og kunnugt er frestuðu forkólfarnir í ASÍ kjaramálaráðstefnu sinni þar til seint í janúar. Talsmenn ASÍ gerðu lítið úr ágreiningi, en vitað er að ýmsir forsvarsmenn iðnaðarmanna neituðu algerlega að fallast á það að fullar vísitölubætur til umbjóðenda þeirra kæmu niður á lægst launaða fólkinu. Um þá helgi sem VBL verður prentað hefur verið boðað til framkvæmdastjórnarfundar Verkamannasambandsins ásamt formönnum aðildarfélaga. Sterkur grunur leikur á að þar verði reynt að fá samþykkt Verkamannasambandsþingsins um vísitölumálið breytt.

Frestun kjaramálaráðstefnu ASÍ kemur að auki ekki síst til vegna stjórnarkreppunnar. ASÍ-forkólfarnir vilja vita hvort þeir eigi að stíga í vinstri fótinn eða þann hægri. Það þýðir ekki að predika frið á meðan ekki er öruggt að Alþýðubandalagið sitji í stjórn. Það er rétt að taka það fram að talsmenn ASÍ hafa þverneitað því að nokkuð sé hæft í þessu.

## KANINN LÆTUR AD SÉR KVEÐA

Flugslysið mikla á Mosfellsheiði sýndi ekki aðeins fram á slæman fjarskiptabúnað íslenskra björgunarsveita heldur einnig hve slæmt er að Íslendingar þurfi algerlega að vera upp á ameríska herinn komnir þegar um þyrluflutninga af slysstað er að ræða.

21.des s.l. kom líka í ljós að Kaninn er varhugaverður í fleiri hlutum. Hann telur sér í sjálfsvald sett að fara út fyrir vallarsvæðið og stöðva fólk á förnum vegi og spyrja það spurninga í krafti alvæpnis. Þáttur íslenskra yfirvalda er athyglisverður. Þau telja það helsta hlutverk sitt að eyða málinu en ekki að standa vörð um réttindi íslenskra ríkisborgara.

frá EIK(m-l)

## Þarftu að komast í samband?

Frá og með mánudeginum 7. janúar er fulltrúi EIK (m-l) til viðtals í húsnæði Október-forlagsins - bóksölunni á horni Grettisgötu og Frakkastígs í Reykjavík.

Fyrst um sinn verður viðtalstíminn á máundögum frá kl. 5 til 7 síðdegis í viku hverri. Þá geta menn hitt fulltrúa samtakanna að máli á staðnum eða símleiðis í síma 29212.

Með þessu vilja Einingarsamtökin auðvelda fólki að ná sambandi við forystu eða félaga samtakanna. Þau geta veitt aðstoð, svarað gagnrýni, tekið við tillögum og leyst úr hvers kyns spurningum.

Fólk hefur gagnrýnt okkur fyrir af lokaða starfsemi og sagt að erfitt væri að komast í tæri við þau. Við vonumst eftir því að viðtalstíminn verði mönnum notadrjúgur.
Verið velkomin.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar.



## Leshringur EIK(m-l) endurútgefinn

Út er að koma námsskeið í marx-lenínískum fræðum á vegum EIK(m-l) Námsskeiðið byggist á 6-7 fundum og er verið að útbúa lítinn bækling þar sem gefið er upp við hvaða lesefni er hægt að styðjast á hverjum fundi. Reyndar er sumt af því lesefni nú uppselt en í mörgum tilvikum er til annað lesefni sem hægt er að nota í staðinn, t.d. Baráttuleið alþýðunnar.

Það hefur dregið mjög úr gildi námsskeiðsins að allt lesefni hefur verið mikið, ósamsett og dýrt í innkaupi. Það kostar þó mikið átak að bæta úr því og verður líklega ekki í bráð.

## Stjórnmálaástandið

Framh. af bls.2

Það má því búast við að hvers konar ríkisstjórnarþátttaka Alþýðubandalagsins á þessu ári - meðan kjaraskerðingarárásin stendur yfir - eigi eftir að hræra mjög upp í flokknum og hraði uppgjöri vinstri mannanna við þá hægri. Að maður tali ekki um hvað verði fari Alþýðubandalagið í samstjórn með íhaldinu.

Marx-lenínistar geta haft töluvert að segja í þessu uppgjöri. Vinstri mennirnir innan Alþýðubandalagsins eru mjög dreifðir í flokknum og einangraðir. Marx-lenínistarnir geta og verða að standa fyrir ráðstefnum, fundum o.þ.h. til þess að umræðan fái eðlilegan framgang og verði til að þjappa framsæknu fólki saman. Geri þeir það ekki heldur láti þessar hræringar sig litlu skipta, þá missa þeir af stærsta og kannski eina tækifærinu sem þeir fá til þess að brjótast út úr smáhópalifelsinu sem þeim hefur hlotnast hingað til.

óhs.

lesendabréf

GAGNRÝNISPUNKTAR SELLU Í EIK (M-L).

Almennt séð hefur blaðið farið batnandi í haust, en lélegur (enginn?) prófarkalestur hefur skemmt mikið fyrir...

Okkur fannst síðasta blað vera undantekning. Þar voru ýmis athyglisverð mál tekin fyrir, en í heild var blaðið mjög þungt og óaðlaðandi:

1. Langar greinar,
2. lítt úthugsuð uppsetning,
3. lítið af menningarefni sem á þó sérstaklega heima í "jólablaði".

Varðandi blaðamennsku gæti Ritn. VBL eflaust lært mikið af Helgarpóstinum sem er vikublað. Þar eru mál tekin upp sem fólk hefur áhuga á. VBL verður að sjálfsögðu að setja málin meira í pólitískt samhengi en Helgarpósturinn gerir.

★

FRAMKVÆMDANEFND Á HÁUM HESTI.

Í leiðara síðasta VBL var fullyrt að innan við 500 atkvæði til Fylkingarinnar væri enginn sigur. Mér finnst Framkvæmdanefnd EIK (m-l) þarna setja sig á nokkuð háan hest. Aukning frá 186 atkvæðum upp í 484 er víst umtalsverð. Aukning. Það er greinilegt að stór hluti róttæklinga sem áður kaus AB hafi frekar kosið að greiða Fylkingunni atkvæði sitt en að kasta því á glæ eins og EIK (m-l) boðaði. Enda kemur nú í ljós að EIK (m-l) getur ekkert lesið út úr kosningatölunum um eigið fylgi. Stæði EIK (m-l) ekki betur að vígi ef þau hefðu borið fram og gefið framsæknu fólki valkost. EIK (m-l) hefðu þá neyðst til að standa fyrir máli sínu í kosningabaráttunni vissu nú stöðu sína. Kjósandi

★

Frá ritnefnd.

Við létum hjá líða að svara gagnrýni í síðasta tbl. Það var ekki skynsamleg stefna. Við getum tekið undir nær hvert einasta orð sem gagnrýnendur segja. Við vorum of einhliða í kosningaskrifunum. Borgaraflokkarnir eru ekki allir eins og gagnvart stórárás auðvaldsins verður að beita sveigjanlegri taktík. Við höfum líka of fábreytt efni, stórar greinar, lítt aðlaðandi uppsetningu o. fl. o.fl. Jólablaðið okkar var ekkert jólablað heldur hnullungur sem víst er að við höfum misst oná tærnar á okkur. Það eina sem við höfum okkur til málsbóta eru ákveðnir erfiðleikar í vinnslu blaðsins. Það er þó óþarfi að tíunda það hér. Við vonum að með þessu tbl. séum við að stíga skref í rétta átt.

★

MEIRA GEGN USA.

Frá einum leshring EIK (m-l) barst okkur eftirfarandi athugasemd:

"Skeytum VBL er of lítið beint gegn USA móts við skeytasendingar á Sovétmenn. Þessi lönd þarf að tengja betur saman."

VBL Áskrift greiðist á gíró 12200-9

Lausasala: 300 kr.
Áskrift í 1 ár: 5000 kr.
Stuðningsáskrift: 10.000 kr.
Áskrift til útl: 8.500 kr.



# „100—150.000 kr. algert lágmark"

## Verkalýðsblaðið fer á vinnustaði

Yfir landslýð dynur með reglulegu millibili alls kyns tölur og skýrslur um meðallaun í ákveðnum atvinnugreinum og vinnutíma. Verkalýðsforystan talar um að vernda þurfi hina og þessa hópana og hækka við þá kaupið. Að hinu er ekki gætt að bak við þessar tölur eru menn og konur, einstaklingar sem ekki passa alltaf í talnadálkana og möppurnar.

Tíðindamenn Verkalýðsblaðsins fóru á stúfana rétt eftir áramót og ræddu við nokkra verkamenn og konur um kjör þess, hversu mikið það teldi að það þyrfti til að lifa mannsæmandi lífi.

Í Faxaskála við Reykjavíkurhöfn hittum við nokkra hressa menn í kaffitíma.



Guðfreður Jóhannesson (t.h.), Agnar Árnason (t.v.)

## Guðfreður Jóhannesson

Guðfreður Jóhannesson sagði okkur að hann væri einhleypur maður. Hann hefði um það bil 55 þúsund í laun fyrir dagvinnuna og aukavinna væri upp og ofan kannski 4 til 5 tímar stundum meira. En þótt hann hefði ekki fyrir neinum að sjá dygðu þessi laun engan vegin til að lifa mannsæmandi lífi. Til þess þyrftu þau að vera 150 þúsund fyrir vikuna. Guðfreður sagði sem dæmi að hann borðaði á mánuði 90. þúsund krónur fyrir eitt flet og eina máltíð fimm daga vikunnar.



## Björgvin Kristjánsson

Björgvin Kristjánsson var þessu sammála. Hann væri þó fjölskyldumaður og konan hans væri í skóla. Hann leigir íbúð fyrir 42.000 kr. á mánuði sem er nokkuð vel sloppið.

Hafnarverkamennirnir sögðu okkur að þeir hefðu lítið heyrt af kröfugerð Dagsbrúnar. Engum forsvarsmanni félagsins hefði dottið í hug að kynna þeim hana, hvað þá að leita álits þeirra. Það væri líka svo að Guðm. J. sæist ekki niður á höfn nema þegar forstjórinn í Eimskip hringdi í hann og kvartaði yfir verkamönnunum ef þeir væri að mótmæla. "Hún er svona vel vakandi forystan" sögðu þeir að lokum.

## Kristín Hrafnfjörð

Í Sláturfélagi Suðurlands hittum við Kristínu Hrafnfjörð að máli við vinnu sína. Hún sagðist vinna aðeins dagvinnuna, og fengi fyrir það rúmlega 50. þúsund krónur á viku. Hún hefði ekki fyrir neinni fjölskyldu að sjá, þau hjónin væru aðeins tvö.

Kristín sagðist ekkert þurfa að kvarta yfir laununum. Flestir gætu sætt sig við þessi laun og það væri óþarfi að borga meira Henni var ekkert kunnugt um að Framsókn hefði leitað eftir áliti kvennanna hjá Sláturfélaginu um kröfugerð eða kynnt kröfugerð.



## Hulda Stefánsdóttir

Huldu Stefánsdóttur hittum við þarna líka. Hún sagðist hafa um það bil 60 þúsund á viku fyrir dagvinnuna og enga eftirvinnu ynni hún. Hún hefði ekki fyrir neinni fjölskyldu að sjá, en 100 þúsund krónur í vikulaun væru að hennar mati lágmark til að lifa bærilega.

Hulda sagðist ekki hafa komist á síðasta félagsfund í nóvember og lítið hafa kynnt sér kröfugerð félagsins. Þær hjá Framsókn hefðu þó komið inn í Sláturfélag fyrir jólin og spjallað við konurnar.



viðtal Verkalýðsblaðsins

## Ingvar Christiansen

Í Landssmiðjunni ræddum við við Ingvar Christiansen, járnsmið. Hann sagði okkur að hann hefði ca. 80 þúsund fyrir vikuna fyrir u.þ.b. 48 tíma vinnu. Hann er fjölskyldumaður og konan ynni ekki lengur úti en hefði gert það áður. Ingvar sagði að þau gætu þó dregið fram lífið á þessum tekjum.

Ingvar sagði að lágmarkslaun fyrir dagvinnuna þyrftu að vera um 120.000 á viku. Eftirvinnan ætti alveg að hverfa. Það þekktist ekki lengur í Evrópu og Ameríku að menn þyrfti að vinna myrkranna á milli til að hafa í sig og á.

Ingvar sagði að lokum að hann hefði lítið heyrt til stéttarfélagsins. Hann hefði ekki komist á félagsfund sem haldin var í nóvember og enga kröfugerð vissi hann um sem félagið hefði gert.

